# Til Islendínga.

Fljótfær, hrad- og ráng-dæmur Landsmadur í Kaupmannahöfn, ad nafni Vigfús, Sonur Arna bónda Eiríkssonar í Flóa, sem tví-þreytt hefir med medal-heppni lærdóms próf í Lögvísi, hefir med prentadri Auglýsíngu frá 3ja Marts þ. á., á íslendsku frædt Ydur, kjærir Landsmenn! um: ad hann nú hafi fyrst gjert sig vid Lærdóms-efni og Rit þjódkunnann, med útgáfu Rídrita, mér til hnjóds og móds, sem Stjórnara málefna ens konúnglega íslendska Landsuppfrædíngar Félags og þess fyrsta Stiptara fyrir 33 árum, án þess hann hafi nockurt kall til þvíumlíks, heldur enn nockurr, sem hvorki er né hefir verid Lagsmadur þessa Félags, en telur sér samt bera rétt til, med allri þeirri fávitsku og rángdæmi, sem Rit þetta lýsir frá upphafi til enda og öllu þess ósanna, marklausa og rángsleitna, ad slettirekast í þau honum alls ókunnu og óvidkomandi málefni, og þad med þeirri uppblásturs frekju og ósvífni, sem best lýsir hans innra manni og, gróf[illegible] framar enn mentads manns líkari, sidum. Hann hefir jafnvel þar í innskotid rángfærdri og þar hjá eldúngis ómerkri yfirskodun nockurra Reikníngs þessa Félags, á laun vid þad, og honum heimildar-

lauft í hendur seldri og hana svo áfigkomna, sem var Félagsins eins eignar og umráda skjal, dirfst ad láta prenta, einúngis ad hluta annars þeim málum vidkomanda parts, án allra tilsvara og ástædna frá ødrum vidkomendum og án røksemda, á hverjum þetta Félag sídan bygdi úrskurdi sína um hennar sérhvert atridi, sem flestöll fundust ómerk og ósanngjørn, mér og þessu Félagi til vansa og hana, svo varna, leggja fram fyrir þess Almennings dómstól, sem aldrei er fær né bær um, nockurn dóm á þau mál ad leggja.

Ad sønnu hafdi eg í rádi opinberlega ad auglýsa á prenti og hrinda øllum þessa manns og bandamanna áráfum og leggja røksemdir nægar og ástædur þar ad lútandi fram fyrir Almennings augu, og álasar V. Eiríksson nú ínefndri Auglýsíngu mínum drætti á þessu, en eg veit hverki hann né nockurn, ellegar Løg fá mig til þessa skyldad, fyrr enn eg sjálfur þad álykta og girnist, þar í mínu valdi stendur bædi þetta og hid gagnstæda af ad ráda, láta mitt fyrsta útkast útkoma nær helzt eg vil, eda aldrei. breyta því, vidauka þad, vid nýar áráfir, ellegar vyrda þad allt þagnar forakts, á medan eg ecki þecki þenna *Cand.* Vigfús Eiríksson sem mitt Yfirvald eda mann, hverjum beri løgsøgn og Dómara vald um Embættismenn hér á landi, verk þeirra og verdugleika og honum óvidkomandi Félag, hverjum eg sé skyldugur um nockra réttlætíngu minna

athafna. Allrafíst er eg enn ráðinn í það að gjöra, að svo vexnu máli, á meðan eg með Lögum og Rétti nú átel fyrir hlutádegandi Dómstólum hans ómannlegu frekju og uppávöðslu við mig fyrir sakleysi, sem mann í þeirri Embættis-stöðu, að ecki á eða vil hana óátalda þola; sem mann, er **aldrei hefi eitt orð** við *Cand.* **Vigfús** þenna **Eiríksson** talað, eður á það strá fyrr eða síðar stígið, sem honum mætti miður gédjast, og sem mann, hvers lánga Embætta og menta þjónusta meðal Ydar mætti, sem annara, vænta sér mannkjærlegri og siðugri meðferðar og umbuna af hyggnum og sanngjörnum Landsmönnum.

Af Ydur, minir hreckjalausu, siðsömu og ráðvöndu Landar! vænti eg þess, að ráðvendni Ydar og hyggindi muni halda Ydur frá þessara ófrægu árása afskiptum, sem Ydur bæði flestum óviðkomandi, litt sæmandi og þar hjá óljósum, en Þér forðast þar um í ótíma að fella hraparlega, rángsnúna og ómerka dóma, uns merkari og **fullgyld andsvör** um þessi **efni**, á **hæfilegri tíð**, **leggjast fyrir** Ydur og **Almennings augu**, heldur að Þér minnist helgra **heilræða**, **Matth.** 7, 1—2.: „Verið „ecki ómildir í **dómum ydar** um aðra, „að ecki **dæmi** þeir eins um **ydur**; því, „líkur dómur þeim, þér fellið yfir öðrum, „mun yfir ydur felldur verða og — eins

„og þér mælid ødrum, munu þeir apt-
„ur mæla ydur."

Þetta er nú allt, hvad eg í brád finn henta um þessi málefni opinberlega ad auglýsa.

Videyar Klaustri, þ. 20ta Júnii 1827.

M. Stephensen.